# LEIÐBEININGAR
# UM
# HIRÐINGU BÚFJÁR





*Yfirlæknir Sig. E. Hlíðar og dýralæknar Bandaríkjahersins.*



*Stjórn Búnaðarfélags Íslands er að athuga form þessa bæklings.*

# LEIÐBEININGAR UM HIRÐINGU BÚFJÁR

SAMIÐ HAFA

**DÝRALÆKNAR BANDARÍKJAHERSINS Á ÍSLANDI**

Í SAMRÁÐI VIÐ

DÝRALÆKNI RÍKISINS

BÚNAÐARFÉLAG ÍSLANDS

MJÓLKURSAMSÖLUNA

RANNSÓKNARDEILD HÁSKÓLANS

OG

FÉLAGSMÁLADEILD BANDARÍKJAHERSINS

Á ÍSLANDI




GEFIÐ ÚT AF

**UPPLÝSINGASKRIFSTOFU BANDARÍKJANNA**

# INNGANGUR

Undir forustu herra C. H. Bonesteel, yfirhershöfðingja, starfar dýralæknadeildin ameríska, bæði yfirmenn og undirgefnir, í nánu sambandi við yfirdýralækni Íslands, íslenzk yfirvöld, Búnaðarfélag Íslands, Mjólkursamsöluna og aðrar stofnanir, og er hún að rannsaka á vísindalegan hátt aðalsjúkdómana í íslenzkum nautgripum, sauðfé, svínum og jafnvel refum.

Aðalmarkmið dýralæknadeildar Bandaríkjahersins hér á landi er sá, að íslenzkir bændur eignist heilbrigðari bústofn, en þeir eiga nú, og að allir íslenzkir neytendur fái betri landbúnaðarafurðir, en nú gerist.

Rannsóknirnar eru mjög víðtækar og ná meðal annars yfir aðferðir, til þess að koma í veg fyrir súrnun, og þrautaleitir að lyfi til þess að lækna mæðiveikina, sem drepur árlega svo þúsundum skiptir af sauðfjárstofni Íslendinga.

En lang-alvarlegasti sjúkdómurinn í íslenzku sauðfé er hin svo kallaða Mæðiveiki. Fátt eitt vita menn um þennan sauðfjársjúkdóm, þótt hann drepi árlega mörg þúsund fjár á Íslandi. Hans hefir nú orðið vart í Suður-Afríku og á stöku stöðum í Norður-Dakota og Montana í Bandaríkjum Norður-Ameríku.

Um sláturtímann í haust var allt sjúkt fé athugað mjög gaumgæfilega, og er nú verið að gera allt, sem unnt er, til þess að finna orsök sjúkdómsins. Í vetur hefir dýralæknadeild hersins og íslenzka rannsóknar-



*Gerð er tilraun um fósturlátssótt á hinum ágætu mjólkurkúm í Langholti. Einn dýralæknir úr hernum nær í sýnishorn af blóði, en annar stendur hjá með gerilsneydd tilraunaglös. Tilraunin á að sýna, hvort hætt sé við fósturláti.*



*Hér, í rannsóknarstofu Háskólans, hefst erfiða starfið. Ótal prófanir og tilraunir verða fram að fara, áður en orsök sjúkdómsins er fundin, og sýkillinn einangraður. En svo getur þó farið, að enn fleiri tilraunir verði að gera, áður en læknisdómur er fundinn.*

nefndin einnig verið að leitast við að finna með hvaða hætti sjúkdómurinn berst frá einni sauðkind til annarar, og hefta þannig útbreiðslu hans.

Ennfremur hefir dýralæknadeildin unnið að því, nú síðustu mánuðina, í rannsóknarstofu Háskóla Íslands og með prófessor Níels Dungal, að rannsaka mæðiveikina.

Auk þessara merkilegu áforma beinast og störf dýralæknadeildarinnar að því að rannsaka hina langvinnu sauðfjárlungnabólgu, svo og réttar aðferðir og hentuga tíma fyrir böð gegn húðsjúkdómum. Þá er deildin og að rannsaka fósturlát refa, sníkjudýr á refum, svínasjúkdóma og sjúkdómsgreiningar búpenings yfirleitt. Ennfremur heilbrigðishéttu í mjólkurbúum, mjólkur umsjón, athugun mjólkurvéla og íláta og tilbúning rjómaíss. Íslenzk hross eru sterk og heilsuhraust og þurfa því lítt dýralækna við. Allt af hefir verið höfð hin nánasta samvinna við íslenzk yfirvöld og íslenzka dýralækna á hverjum stað og bændur þá, sem hlut eiga að máli.

Berklaraun hefir verið gerð á mjólkurkúm, svo að hundruðum skiptir, og aðferðir hafa verið sýndar til þess að kenna mönnum, hvernig gera skuli þessa raun. En þær raunir, sem gerðar hafa verið um fósturlátssótt í nautpeningi og sauðfé, eru þó, ef til vill, ennþá mikilsverðari. Þessir sjúkdómar hafa átt sök á því, að fjölmargar ær á Íslandi hafa látið lömb-



*Fallegt, heilbrigt lamb, vekur bros á allra vörum — þar með talið lambið sjálft.*

um. Svo er álitið að þetta sé í fyrsta skipti, sem raun er gerð um fósturlátssótt í nautpeningi og sauðfé á Íslandi.

Hundraðstala af kúm, sem þessi raun hefir verið gerð á hingað til, hefir sýnt, að sjúkdómurinn er hér til, þótt fáar kýr hafi til þessa látið kálfum, og fjárhagsskaðinn sé lítill, enn sem komið er. Í ám hefir sjúkdómur þessi verið alvarlegur, og á sumum bæjum hafa fimmtíu ær af hundraði, eða jafnvel fleiri, látið lömbum.

Sífellt rannsóknarstarf í tilraunastofum Háskólans, sem íslenzka stjórnin hefir heimilað dýralæknadeild hersins aðgang að, hefir gert þeim kleift að einangra bakteríur þær, sem eiga sök á sjúkdómi þessum í sauðfé. Og er árangurinn sá, að dýralæknar hersins hafa búið til bóluefni til þess að hefta sjúkdóminn. Og tilraununum verður haldið áfram næstu vikur til þess að ganga úr skugga um áhrif bóluefnisins.

Annað nauðsynjamál, sem rannsóknarnefnd læknaskólans og dýralæknadeild hersins hafa samstarf um, er að leitast við að búa til varnarlyf, er nota megi til þess að gera tilraun á sauðfé um innyflasjúkdóm þann, sem kallaður er garnaveiki (para tuberculosis).

# KÝRNAR YÐAR



Náttúran veitir ungviðinu mjólk til næringar. Þess vegna hefir mjólkin að geyma mörg nauðsynleg efni, til þess að byggja upp líkamann, skapa táp og vernda heilsuna. Mjólkin hefir inni að halda eggjahvítuefni, fituefni og kolvetnissambönd, steinefni og fjörvi í auðmeltu formi. Allir ættu að neyta mjólkur á hverjum degi og manneldis sérfræðingar ráðleggja mönnum að drekka að minnsta kosti einn lítra af mjólk á dag. Á Íslandi er lítið um sólskin í skammdeginu og fjörvi og ýms steinefni vantar í daglega fæðu. Þar er því mjólk einkar mikilsverð, því að hún hefir inni að halda kalk, sem mjög þarf við, til þess að þroska tennur og bein og halda þeim hraustum. Ennfremur er A-fjörvi í mjólkinni og hjálpar til þess að verja neytandann gegn smitandi sjúkdómum. Nú þar sem allir hafa fallizt á gildi mjólkurinnar sem



*Inni í fjósinu eru júgur kúnna athuguð, til þess að komast að raun um, hvort í þeim sé sjúkdómur sá, sem kallaður er júgurbólga. Þessi sjúkdómur getur breiðst út fljótt, og dregur hann bæði úr magni og gæðum nýmjólkurinnar. Sjáið, hve hreint bæði fjós og kýr eru. Úr svona fjósi kemur sú mjólkin, sem hreinust er og hættulausust og bezta veitir heilsuna.*







*Heilbrigðar kýr* *hrein fjós* *hreinar hendur*

hluta af daglegri fæðu manna, verður að athuga, hversu halda má henni hreinni og ómengaðri. Mjólkin, eins og hún verður til í júgri heilbrigðra kúa, er í raun og veru gerlalaus, en hún getur meingast eftir að hún kemur úr júgrinu, ef ekki er gætt mestu varúðar. Bakteríum, sem komast í mjólk, má skipta í tvo flokka, venjulegar mjólkurbakteríur og hinar, sem orsaka sjúkdóma. Mjólkurbakteríur geta verið í mjólk, þegar hún kemur úr júgrinu, eða þær geta komist í hana, ef mjólkurílát eða tæki eru óhrein. Þessar bakteríur sýra mjólkina eða skipta henni og geta framleitt gas af sama tagi og það, sem er í ystri mjólk.

Þeir sjúkdómar, sem venjulegast berast með mjólk, eru: berklar, köldusótt, skarlatssótt, taugaveiki, barnaveiki, illkynjuð hálsbólga, barnalömun og kólera. Bakteríur þær, sem orsaka þessa sjúkdóma, berast venjulega í mjólkina frá mjaltamönnunum, meðan þeir eru að mjólka og fást við mjólkina. Sá, sem er veikur, ætti ekki að fást við mjólkina.

Ef mjólkinni er haldið kaldri, frá því er hún kemur úr kúnni og þangað til hennar er neytt, er hægt að hafa hemil á bakteríumynduninni, og er þá ugglaust, að mjólkin verður bragðgóð og hættulaus.



*Farið eftir reglum um mjólkurkælingu. Ef mjólkin er sval-köld, geymir hún góða bragðið miklu lengur. Þegar bændur lengja þann tíma, sem mjólkin helzt bragðgóð, geta þeir selt borgarbúum meira, og neytendur fá betri vöru.*



*kæling* *hrein ílát* *heilnæm, heilsustyrkjandi mjólk.*

Sé þetta gert og mjólkin gerilsneydd, er það víst, að af þeim bakteríum, sem í mjólkinni eru í fyrstu, drepast níutíu og níu af hverju hundraði.

Á góðu mjólkurbúi ættu aðeins að vera heilbrigðar kýr. Veikar kýr ættu aldrei að fá að vera innan um aðrar mjólkurkýr. Ef kýrnar eiga að halda góðri heilsu er nauðsynlegt, að þær fái fóðrið í réttum hlutföllum og gnótt af hreinu vatni. Ef salt, korn, þorskalýsi, fiskmjöl og þau steinefni, sem unnt er að fá, eru gefin til viðbótar fóðrinu, styður það mjög að því að auka heilsu kúnna, nyt þeirra og gæði mjólkurinnar.



*Grétar Símonarson og dýralæknir úr hernum skoða mjólkurílát, sem er hreinsað á réttan hátt. Ef ílátið er þegið úr heitu sápuatni eða klórupplausn, síðan skolað úr sjóðheitu vatni, og svo látið standa þar, sem sem sól nær til þess, ver þetta mjólkina all-verulega súrnun af völdum baktería, sem eru í ryki og óhreinindum.*

Til þess að störf líkamans séu í réttu lagi, er hreyfing mjög nauðsynleg bæði mönnum og skepnum. Kúm ætti að leyfa að hreyfa sig að minnsta kosti eina klukkustund á dag, jafnvel um vetrarmánuðina, og ætti þá að nota þann tíma, sem kýrnar eru úti, til þess að hreinsa básana.

Til þess að frameliða góða og hreina mjólk verða menn að hafa ljós, svo að þeir sjái, hvað þeir eru að gera. Þess vegna er mikils um það vert, að birta sé nóg í fjósinu og í mjólkurhúsinu.

Til þess að framleiða hreina mjólk, verður bæði fjósið og mjólkurhúsið að vera hreint. Raunir gerðar á rannsóknarstof-

um sýna, að mjólk úr kúm í óhreinum básum eða óhreinum fjósum, er óhrein og súrnar miklu fyrr en mjólk úr hreinum fjósum.

Það er mjög mikils vert fyrir heilsu kúnna, að loftræsting sé góð í fjósunum. Sé loftræsting ónóg, verður loft, veggir og gólf vot og rök, og valda veikindum á kúnum.

Hrein og gerilsneydd tæki skyldi eingöngu nota við mjólkina. Öll tæki skyldi vandlega hreinsa og skola upp úr sjóðheitu vatni eða klórupplausn, og þess vendilega gætt, að ekki falli ryk á þau milli þess að þau eru notuð.

Þeir, sem við mjólkina sýsla, ættu að vera í hreinum fötum. Þá skyldi og sá, sem mjólkar, vera hreinn og þurr á höndum. Sérhver kýr skyldi þvegin eða burstuð, áður en hún er mjólkuð, til að nema burtu óhreinindi þau, sem safnazt hafa á huppana, lærin, síðurnar og júgrið. Auk þess ætti að klippa þær oft á þessum stöðum, því að í löngu hárin safnast oft óhreinindi með bakteríum í, og getur þetta auðveldlega komizt í mjólkina.

Janskjótt, sem búið er að mjólka, skyldi bera mjólkina úr fjósinu og kæla hana niður í 10° stig á Celsíus.

Af keim mjólkurinnar, fitumagni, bakteríufjölda og hitanum, sem hún er geymd í, má ráða gæði hennar; og getur mjólkurbúseigandi sjálfur annazt þetta. Það ætti að vera í augum uppi, að sá bóndi, sem eyðir þeim tíma og þeirri varkárni, sem nauðsynleg er, til þess að hafa mjólkina hreina og heilnæma, ætti að fá meira fyrir vöru sína en hinn, sem er jafnkærulaus um allt frá upphafi til enda.



*Stefán Björnsson og tveir dýralæknar úr hernum taka sýnishorn af mjólk til prófunar í rannsóknarstofu, til þess að kynnast hinum mismunandi gæðum mjólkurinnar.*

# SVÍNIN YÐAR



Svínarækt á Íslandi hefir aukizt töluvert nú um nokkur undanfarin ár, og er það að miklu leyti vegna úrgangs þess og skvols, sem komið hefir frá setuliðinu og hafa má til fóðurs þessum skepnum. Þetta er í raun og veru mjög gott svínafóður, því að það hefir inni að halda nauðsynleg A-fjörvi, steinefni, eggjahvítuefni, fituefni og kolvetnasambönd, og er þetta allt gott fóður hvað með öðru. En með skvolinu er þó nauðsynlegt að hafa gras eða jurtir og nóg af hreinu og góðu vatni, ef árangurinn á að vera góður. Handa grísamæðrum og uppvaxandi grísum er líka gott að bæta mjólk, korni, beinum og fiskmjöli við daglega fæðu þeirra.

Sú hugmynd, að svín séu óhreinar skepnur er hvergi nærri rétt. Svín ættu að hafa jafn hreina bústaði og önnur dýr, og oft er það, að svín halda stíum sínum hreinni en t. d. kýr. Eitt af því, sem leiðir af slíku hreinlæti er að það stuðlar að því að hefta innvortis-sjúkdóma. Loftræsting, nóg birta og upphækkað gólf stuðla og að æskilegu hreinlæti.

Því er svo háttað um svín, sem aðrar lifandi verur, að þau þurfa sólskin, til þess að dafna eðlilega. Af þessum sökum ætti smágarður eða grasflötur að fylgja hverri stíu, svo að svínið geti hreyft sig, sleikt sólskinið og bitið grasið, sem þar er að fá. Svínum, sem ekki hafa aðgang að beit, hefir reynzt hættara við blóðleysi. En þegar skilyrðin hafa verið bætt, hefur blóðleysið líka læknazt.

Grísir á spena eru lítið hárgaðir og ekki mjög feitir; ætti að gefa þeim bæli úr svo lausu dóti, að þeir gætu hreiðrað sig í því, og ætti það ekki að vera rykugt. Hey, hálmur og hefilspænir eru góðir til þessa. Svín þurfa að hreyfa sig. Þau dýr, sem enga hreyfingu hafa, hafa minna hjarta og minni lungu og eru næmari fyrir sjúkdómum en hin, er þess eiga kost að hreyfa sig í sólskininu. Magi svína er tiltölulega lítill, og ættu þau því að hafa aðgang að fóðri nokkrum sinnum á hverjum degi.



*Ef svín njóta sólskins, eru í hreinu lofti og fá að hreyfa sig, styrkist heilsa þeirra fljótt og þau verða arðvænlegri eign.*



*Þegar veiki kom upp í svínum í nágrenni Reykjavíkur nú fyrir skömmu, buðu dýralæknar hersins hinum innlendu dýralæknum á staðnum þegar í stað aðstoð sína. Ásgeir Einarsson og dýralæknir úr hernum athuga svín, sem hefir á sér einkenni svínakóleru. Með nýjum sótthreinsunaraðferðum, sem dýralæknar hersins stungu upp á nýlega, tókst að hefta sjúkdóm þennan, sem var að drepa hundrað prósent af samfæðingjahópum ungra grísa í nágrenni Reykjavíkur og Hafnarfjarðar.*

Gyltur ættu ekki að vera of feitar, því að það gerir þeim meðgönguna erfiðari og hindrar þroska spenanna. Rétt áður en grísirnir fæðast, ætti að láta gyltuna í hreina stíu og þvo spenana. Þetta mundi verða til þess að koma í veg fyrir, að hinir ungu grísir sýktust af spenunum.

Svína-sjúkdómar skiftast í þá sjúkdóma, sem orsakast af mataræði, smitun og sníkjudýrum. Þau svín, sem fá gott fóður, steinefni, vatn og gott kjarnfóður, ættu að vera að miklu leyti laus við þá sjúkdóma, sem stafa frá fóðrinu. Úrgangur frá herbúðunum er álitinn yfirhöfuð ágætt fóður. Lungnasjúkdómar stafa af því, að of mörg svín eru höfð saman í rökum og óhreinum híbýlum. Ef þessu er kippt í lag, má hafa hemil á sjúkdómnum. Blóðsjúkdómar, eins og svínakólera, miltisbrandur svína heimakoma og lungnapest, má lækna, eða hafa hemil á að nokkru leyti, með bólusetningu. Þarma-sjúkdómar eru, á hinn bóginn, að kenna óþrifnaði, einkum að því, er tekur til fóðurs og vatns. Venjulega má hafa

hemil á þessum sjúkdómum, með því að auka hreinlætið bæði um fóður og híbýli. Sóttkvíun er eitthvert bezta ráðið, til þess að hafa hemil á nýkomnum smitsjúkdómum. Sjúku svínin ætti að skilja frá hinum, sem heilbrigð eru, sjúkdómurinn getur borizt, ekki aðeins með snertingu, heldur með stígvélum hirðisins, flugum, rottum, saur úr svínunum sjálfum, rennandi vatni o. frv.

Hreinlæti er bezta ráðið til að halda í skefjum sníkjudýrasjúkdómum í svínum. Sumir þessara sjúkdóma geta borizt til manna, og fyrir því ætti að sjóða svínakjöt vel, áður en það er etið, eða frysta það niður í 20 gráður á Celsius í 20 daga eða lengur, eða geyma það lengi í sterkum saltpækli.

Lýs og kláði koma venjulega af óhreinindum. Hvorugt þetta getur þrifist, ef fita er í fóðrinu, svo að þau svín fá sjaldan á sig þennan ófögnuð, sem alin eru á úrgangi frá hernum. Ef pokar eru vættir í olíu, og bundnir við stólpa þá, sem svínin nudda sér við, nægir það venjulega til þess að útrýma sjúkdómnum.



*Þetta er fyrirmyndar svínastía. Hún er hrein, þurr, vel björt og loftræstingin góð. Takið eftir vörzlugrindinni við hliðina. Hún er til varnar smágrísunum. Upphækkaða gólfið er þakið hefilspónum.*

# SAUÐFÉÐ YÐAR



Hin miklu og ágætu beitilönd og hinir löngu sólbjörtu sumardagar á Íslandi, skapa, að kalla má, hin ákjósanlegustu skilyrði til sauðfjárræktar. Þó hefir ýmsum sjúkdómum skotið upp hér, og ef útbreiðsla þeirra er ekki heft, verða þeir til allmikils tálma þeim, sem sauðfjárrækt stunda.

Í allri kvikfjárrækt reynist það happadrýgst að koma í veg fyrir dýrasjúkdóma, sjúkdómsvörnin verður auðveldari en lækning, þegar skepnurnar eru orðnar sýktar. En ef sjúkdóma verður nú samt sem áður vart, eru til ýmsar aðferðir, til þess að kljást við þá, grundvallarreglur, sem beita má, til þess að halda tjóninu í skefjum eða draga úr því. Sumar af þessum ráðstöfunum eru þær, sem nú skal greina:

1. Að veita kindunum hreint og heilnæmt fóður og gott vatn.
2. Hafa þær í hreinum og þurrum húsum með góðri loftræstingu.
3. Láta kindurnar njóta eins mikils sólskins og unnt er, svo og hreyfingar í fersku lofti.
4. Að koma í veg fyrir samgöngur milli sjúkra og ósjúkra kinda.
5. Að einangra, sóttkvía eða slátra fénu.
6. Að hreinsa og sótthreinsa allar kvíar, hús og tæki, sem smitast hafa eða óhreinkazt af sýktu fé.
7. Ef til er gott bóluefni við sjúkdómum, er sjálfsagt að nota það.

Um garnaveiki er það að segja, að bakteríurnar, sem orsaka hana, má finna í sauri sýktra kinda. Ef saurnum er ekki mokað burtu, verða bakteríur þessar í húsunum, og breiðist þá sjúkdómurinn út til heilbrigða fjárins. Það er því augljóst, að nauðsynlegt er að moka út saurnum, sem oftast.

Við sauðfjársjúkdómum þeim, sem nú ganga yfir Ísland, eru enn sem komið er, fá örugg bóluefni fáanleg til lækningar. En þess er þó að vænta, að verulega góður árangur verði af þeim rannsóknum, sem nú standa yfir.

Reynslan hefir sýnt, að varnarlyf við bráðapest hafa fullkominn hemil á þeim sjúkdómi, og að önnur varnarlyf hafa reynzt mjög vel við blóðsótt í lömbum og stundum við lungnabólgu.

Bæði innvortis og útvortis sníkjudýr veikja mjög viðnámsþrótt dýra. Þessir sníklar lifa á blóði dýranna, sem þeir búa í. Innvortis sníklar eru: ormar í lungum, lifur, innýflum og öðrum fleiri líffærum líkmans. Útvortis sníklar eru lýs og færilýs í ull og á skinni sauðkinda. Ef húsin eru eru hrein, og oft stungin, verður það til þess, að hafa má hemil á útvortis sníkjudýrum um vetrarmánuðina.

Útvortis sníkjudýr ætti að þrífa af kindunum, áður en farið er að hýsa

þær á haustin. Bezt er þó að baða sauðfé, þegar hlýtt er orðið í veðri, seint í júní eða snemma í júlí, rétt eftir að féð hefir verið rúið.

Fjárböðun að vetrarlagi hefir miklu minni áhrif, því að þá er ullin orðin mikil og fita í henni, og er þá erfitt fyrir baðlyfið að komast inn að skinninu, en þar hafazt sníkjudýrin við. Þegar sauðkindur, sem þjáðar eru af sníkjudýrum, eru látnar margar í sama hús að haustlagi, þá er það oft, að sníkjudýr setjast að í fóðurílátum, jötum eða á húsveggjunum, svo að jafnvel þótt vetrarböðun sé góð, er mjög hætt við því, að féð sýkist aftur, þegar það er á húsi. Með því að baða féð seint á vorin eða snemma sumars, er þessari hættu að mjög verulegu leyti bægt í burtu; þá þarf og minna baðlyf að nota og hægra fyrir lyfið að komast inn að skinni. Þá er líka minni hætta á því, að kindurnar kvefist af kulda upp úr böðuninni.

Ef það tekst að útrýma útvortis og innvortis sníklum, og fylgt er reglunum um að hafa fóðrið og vatnið hreint og hýbýli og lífsskilyrði heilsusamleg, þá ætti sauðféð að vera heilsugott og þroskast fljótt.



*Dýralæknar hersins koma í heimsókn að Reykjum, jörð nálægt Álafossi, og er Hannes Jónsson dýralæknir (nú dáinn) í för með þeim. Ásgeir Bjarnason heldur í eina af kindum sínum, sem verið er að skoða, til þess að komast að raun um, hver sé orsök sjúkdóms þess, er hann bjáir.*



*Gísli Þórðarson sýnir dýralæknum hersins refi sína.*

Ljósmyndirnar hefir U. S. Army Signal Corps tekið



*Númi Eiríksson og dýralæknir úr hernum vinna saman að því, í sláturhúsi í Reykjavík, að kryfja til rannsóknar sauðkind, sem sýkzt hefir af mæðiveikinni. Með lungun var farið í rannsóknarstofuna til gaumgæfilegrar athugunar, til þess að leita að orsökum þessa skaðlega sjúkdóms.*



*Gerð er tilraun á íslenzkum hesti, til þess að sjá, hvort hann er holhnúska. — Íslenzk hross hafa reynzt sterk og heilsugóð.*




# *Minnisblað*

## KVIKFJÁRRÆKT

*ALMENNAR ATHUGASEMDIR:* Til þess að koma upp og viðhalda sterkum og heilsugóðum bústofni.

1. *Hafið hrein, þurr, vel loftræst fjós og fjárhús.*
2. *Gefið skepnunum hreint og heilnæmt fóður og vatn.*
3. *Látið ekki hjá líða, að leyfa skepnunum að hreyfa sig sem mest og hafa nóg af fersku lofti og sól-. skini.*
4. *Leyfið engin mök við sjúkar eða sýktar skepnur.*
5. *Takið á brott allar veikar skepnur, einangrið þær í sóttkví, eða slátrið þeim.*
6. *Bólusetjið, ef dugandi bóluefni er til.*

## KÝR

Til þess að fá hreina, óspillta mjólk, er þetta nauðsynlegt:

1. *Að kýrnar séu hraustar.*
2. *Að fjós og hús séu hrein og vel loftræst.*
3. *Að fóður og vatn sé hreint og heilnæmt.*
4. *Að öll mjólkuráhöld og ílát séu hrein.*
5. *Að mjólkurherbergi og mjólkurhús séu hrein.*
6. *Að vera hreinn á höndum og í hreinum fötum.*
7. *Að hafa mjólkina alltaf sval-kalda.*
8. *Að verja mjólkina ávallt fyrir ryki og öðrum óhreinindum.*